# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, APRÍL 1901. Nr. 2.

## Páskasálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM, út af Matt. 28, 11—15.

(Lag: Sólin upp runnin er.)

1. Nú hljómar fjörðum frá
til fjalladala,
og hátt berst hljómr sá
til himinsala :
að drottinn vor frá dauðanum sé genginn,
guðs fólk úr fjötrum leyst,
þess frelsi endrreist
og friðr fenginn.

2. Hans gröf var gengið frá
með grimmum huga,
og innsigli sett á,
sem átti' að duga ;
og varðmenn gæta grafarinnar skyldu.
Að sveinar herra sinn
þá segðu upprisinn
menn varna vildu.

3. Með bjargi byrgð var þró.—
Þá birtist undr :
á bjargið bjarma sló,—
það brast í sundr ;
og Jesús reis í dýrð á páskadegi.
Það skelfdust varðmenn við,

og varðhalds-innsiglið
það afl stóðst eigi.

4. Með vélum var það reynt,
að vítt ei fœri,
svo ætíð öllum leynt
um aldir væri.
En þetta vélaráð sem önnur riftist;
því hann, sem klettinn klauf,
hann klœkjanetið rauf;
það sundr sviftist.

5. það út barst öll um lönd
með einum rómi
og hljómar strönd frá strönd
með sterkum hljómi.
Sá boðskapr nú berst um heimsbyggð alla;
já, hátt berst hljómrinn,
að hann sé upprisinn,
til himins halla.

## Út í heiminn.

Svo sem alkunnugt er upp ólst Jesús Kristr í smábœnum Nazaret í Galíleu-héraði. Og birtist í því speki guðlegrar forsjónar. því að enginn annar blettr á jarðríki var eins vel lagaðr til þess að vera œskustöð hans eins og einmitt sá litli bœr. Hefði forfeðr vorir gefið bœnum nafn, íslenzkt nafn, þá hefði þeir mjög sennilega kallað hann í Skál. því bœrinn stendr og stóð frá upphafi í hringmyndaðri hvylft, sem öllum megin var umkringd af fjöllum eða hálendi; og sumsstaðar náðu hús bœjarins upp undir skálarbrúnina. Og af því að landslagið á þessum stað er þannig, var bœrinn svo einkennilega afskekktr og svo að kalla út úr heiminum. Hann sést hvergi að. Úr hverri átt sem menn koma, er hann með öllu hulinn þangað til algjörlega er inn í hann komið. Fyrir þessa sök ríkti þar friðr og ró. þetta hlaut að hafa þýðing fyrir sálarlíf Jesú á barnsaldrinum. það hefir skiljanlega átt sinn þátt í því, að uppeldi hans leiddist svo dásamlega út eins og

fram kom í reyndinni. Það studdi að því, að honum seinna varð svo eiginlegt, að lifa einn með hinum himneska föður sínum, verandi í heiminum og þó eins og ekki í heiminum. En í annan stað er vert að merkja sér það, að þegar komið er upp á skálarbrúnina sunnan við bœinn Nazaret, þá er þar útsýni mikið. Aðal-láglendið í landinu helga, Esdraelon-sléttan, tekr við þar örskammt frá og nær yfir landið þvert frá Miðjarðarhafi í vestri og allt austr að ánni Jórdan. Vestr við haf ber fjallið Karmel við himin, og í austri og suðaustri fjallið Tabor, Gilbóa-fjöll og enn fleiri stór-frægar sögustöðvar, sem minna á ýmsa, ákaflega marga, afar þýðingarmikla atburði á gamla testamentis tíðinni fyrir mörgum öldum. En Samaríu-fjalllendi girðir sléttuna að sunnan og myndar þar takmörk sjóndeildarhringsins. Þarna — á þessu láglendi í Galíleu-héraði sunnanverðu — var alfaravegr heiðingjanna, er þeir fóru um landið helga, hvort sem þeir komu að austan eða vestan, í hvaða erindi sem þeir komu. Frá fjallhryggnum sunnan megin við Nazaret blasti þetta fagra og frjósama landspláss við, alsett blómlegum byggðum og borgum. Á því svæði stóð Gyðingaþjóðin þar heima fyrir við upphaf nýja testamentis tíðarinnar í lang-mestu og nánustu sambandi við hið heiðna menntalíf rómverska heimsríkisins. Líka þetta einkennilega við Nazaret hafði alveg vafalaust þýðing fyrir Jesúm á œskuárum hans. Úr einverunni var honum allt af öðru hverju fyrir þessa sök bent út í heiminn. Mátulega nálægr heimslífinu fyrir utan til þess að sjá öll þess skuggaskifti og geislabrot, baráttu þess og ókyrrð. En í annan stað nógu mikið fyrir utan það til þess að geta á eðlilegan hátt þroskazt til sjálfstœðrar, kyrrlátrar, guðrœkilegrar lífsskoðunar.

Hér er æfinleg bending frá guði til allra, sem eru að hugsa um uppeldi barna, að lífsnauðsyn sé, að uppeldinu sé hagað svo, að sálir barnanna hvorki kafni í heimslífinu, né heldr sökkvi sér svo djúpt niðr í hugsanir einverunnar, að þau verði algjörlega út úr heiminum. Þetta kemr líka ágætlega heim við bœn Jesú fyrir lærisveinum sínum, sem hann bar fram fyrir föður sinn á himnum rétt áðr en hann gekk út í píslardauðann: „Ekki bið eg, að þú takir þá burt úr heiminum, heldr að þú verndir þá fyrir illu.“

Tólf ára gamall er Jesús, þegar hann ferðast með íóstrföður sínum og móður sinni suðr til Jerúsalem til páskahátíðarhaldsins þar. Og í fyrsta sinn á æfi sinni kemr hann þá svo að kalla út í heiminn. En að hann hafi oft áðr úr hinu afskekkta œsku-aðsetri sínu í Nazaret hugsað út í heiminn, með heilagri lífsþrá mœnt í anda út fyrir hinn þrönga sjóndeildarhring, er hann þar hafði umhverfis sig, það má telja alveg víst. Hann hefði ekki haft sannarlegt manneðli, ef sú þrá hefði ekki gjört vart við sig í sálu hans. Sú þrá er sjálfsögð öllum mönnum í œsku, sem á réttan og eðlilegan hátt hafa verið upp aldir.

,,Undrandi stari' eg ár og síð
upp yfir fjöllin háu.''

þannig byrjar eitt ljómanda kvæði eftir eitt af stórskáldum heimsins á öldinni sem leið, kvæði, sem hvílir á hinum göfuga grundvelli kristinnar trúar og lagt er í munn ungum manni, er enn sat heima í fásinninu og þráði út í lífið. Hann rennir grun í, að eitthvað mikið sé til fyrir sig álengdar, hinum megin við fjöllin, sem takmörkuðu sjóndeildarhring hans, fyrir utan sjónarsvið œskuáranna. En hvað það muni vera — það veit hann ekki enn. Seinna í kvæðinu stendr þetta:

,,Hann, sem langaði' í átján ár
upp yfir fjöllin háu,
en veit honum er sá vegr of hár,
verðr minni hvert líðanda' ár.''

Og enn fremr:

,,Mun eg þá aldrei, aldrei ná
upp yfir fjöllin háu?
En hamraveggrinn hái þá
hræða mig, svo eg hverfi frá,
og loksins, þó leið sé töfin,
lykja mig inni' eins og gröfin?''

Og loks þetta:

,,Eg veit, að einn leiðir alla hátt
upp yfir fjöllin háu.
Og má ske' er nú hurð þín í hálfa gátt,
herra minn guð! — þar á enginn bágt.
Læs þó enn ljóssins heima.
Lof mér um stund að dreyma.''

Flest, ef ekki allt það, sem hér er til fœrt úr hinu fagra kvæði, getr heimfœrzt upp á Jesúm, meðan hann enn beið á hinu afskekkta œsku-aðsetri sínu í Nazaret og hafði ekki neitt séð af heiminum fyrir utan nema það, sem birtist honum álengdar, er hann mœndi út í sjóndeildarhringinn hinum megin við fjallgirðinguna fyrir sunnan bœinn. Og þó stefndi helgasta œskuþráin hans enn lengra en að takmörkum þess útvíkkaða sjóndeildarhrings. Af brúninni fyrir sunnan Nazaret sást suðr til fjalllendisins í Samaríu, en ekki lengra. En miklu lengra í þá átt stefndi hugrinn, — suðr fyrir Samaríuhérað, inn í Júdeu, til höfuðborgarinnar, Jerúsalem, einkum á einn blett þar, til hins mikla helgidóms, musterisins. Að fá að komast þangað og sjá og heyra allt það dýrðlega, er þar myndi vera í vændum, það hlýtr að hafa verið stórkostlegt tilhlökkunarefni fyrir hið heilaga barn, Jesúm. Uppeldinu hafði verið hagað svo, að hann hlaut að hlakka sterklega til þeirrar stundar, er honum auðnaðist að koma á þann stað. Og hann vissi það víst, svo eða svo löngu fyrirfram, að svo framarlega sem óyfirstíganlegar hindranir ekki kœmi fyrir, myndi hann einmitt á þessu ári fá að vera með foreldrum sínum, er þau ferðuðust til hinnar miklu, helgu þjóðhátíðar í Jerúsalem. þegar drengir voru orðnir tólf ára gamlir meðal Gyðinga í fornöld, þá voru þeir úr því kallaðir ,,synir lögmálsins". það þýddi, að trúarleg ábyrgð kom þá yfir þá. Og var auðvitað til þess ætlazt, að uppeldi þeirra hefði að undanförnu verið hagað svo, að þeim skildist sú ábyrgð. Svona stendr á því, að Jesús nú — í fyrsta sinni á æfinni frá því er hann var ómálga ungbarn — fær að heimsœkja Jerúsalem.

þetta samsvarar þá nákvæmlega fermingunni í vorri kirkju. því vitanlega er það tilætlan kirkjunnar með þeim göfuga helgisið, að ungmennin taki þá með eigin munni og fúsu, fagnanda hjarta upp á sig trúarlega og siðferðislega ábyrgð á lífi sínu. þau kristnast ekki þá, þótt einatt sé ranglega svo að orði komizt hjá oss í daglegu tali. þau kristnuðust í skírninni. þá var þeim, meðan þau enn þá ekkert vissu af sér, veitt náðargjöf eilífs lífs. En með fermingunni lýsa þau sjálf opinberlega yfir því, að þau hafi þegið þá óumrœði-

lega dýrmætu gjöf, og rita sig með eigin hendi inn í kristinn söfnuð, upp á það, að eiga þar heima um tíma og eilífð. Alveg eins má segja, að Jesús, þegar hann tólf ára gamall sótti páskahátíðina í Jerúsalem með foreldrum sínum, hafi sjálfr með eigin hendi ritað sig inn í guðs barna söfnuð Ísraelskirkjunnar. Það er tveim árum fyrr en á vanalegum fermingaraldri eftir því, sem hjá oss tíðkast. En þess ber að gæta, að börn þroskast talsvert seinna hjá oss en í Gyðingalandi og öðrum suðlægum löndum. — Börn kirkju vorrar ætti nú, meðan þau enn eru ófermd, að hugsa til fermingardagsins með sömu tilhlökkun, sömu heilögu trúarþránni, eins og auðsætt er að Jesús á barnsaldrinum hefir hugsað til ferðarinnar til Jerúsalem, er hann væri orðinn tólf ára.

Iðulega er svo litið á, að börnin í kirkju vorri sé eins og send út í heiminn með fermingunni. Og ekki er neitt á móti þeirri skoðan, ef kristna trúin að eins fær að ráða þar. Margir unglingar verða á því skeiði æfi sinnar í bókstaflegum skilningi að hverfa burt úr foreldra húsum og fara út í heiminn, til þess að vinna fyrir sér eða þá fyrir fátœkum foreldrum, hjá fólki, sem kallað er þeim vandalaust og marg-oft þeim með öllu ókunnugt. Og hinir unglingarnir allir stefna að sjálfsögðu út í heiminn, þó að þeir ekki fyrr en svo eða svo löngu síðar hverfi burt frá foreldrum sínum. Slíkt liggr í hlutarins eðli. Mannlífslögmálið ráðanda heimtar það. Umheimr œskumannsins fer stœkkandi. Sjóndeildarhringrinn fœrist út — lengra og lengra út fyrir barnsaldrs-stöðvarnar. Það þýðir sama sem för lengra og lengra út í heiminn. Og öllu er óhætt fyrir unglingunum á þeirri utanför, ef sama hugsanin ræðr hjá þeim eins og hjá Jesú tólf ára gömlum, þegar hann fór í fyrsta sinn út í heiminn.

Ferðin er miðuð við Jerúsalem. Margt nýtt fær Jesús að sjá á þeirri leið. Náttúrufegrðin víða mikil og stórfelld og mannlífið á þeirri tíð mjög margbreytilegt. Og hefir vafalaust í því öllu verið mikill fögnuðr fyrir Jesúm, er hann sá það nú í fyrsta sinn. En aðal-hugsan hans hefir þó víst verið um það, er hann fengi að sjá í Jerúsalem. Því í augum þess barns, sem eins var upp alið og hann, hlaut þar að vera topp-

punktr alls hins góða, fagra og sanna í trúarlífi þjóðarinnar þar myndi allt það, sem hann að undanförnu hafði verið að læra í heimilisskólanum í Nazaret, birtast í þess hæsta veldi. Sú von hans rættist líka blessunarlega. Það verða stórkostleg tímamót í œskusögu hans út af því, sem hann í þetta skifti sá og heyrði í musterinu í Jerúsalem. Trúarlíf hans fær út af því, sem hannn heyrði og sá á þeim helga stað, nýjan frábæran þroska. Hann sá lengra inn í andans heim eftir það, skýrari mynd af guði, föður sínum á himnum, en áðr, og hann sjálfr — barnið — eins og nær honum en nokkurn tíma fyrr. Hann varð svo hrifinn af þessari nýju opinberan í helgidóminum, að hann um stund gleymdi öllu nema guði.

Viðlíka tímamót eiga að verða í æfisögum unga fólksins hjá oss með fermingunni. Fermingin á að styðja að því, að trúarlíf ungmennanna fái í sig nýjan þroska, festist og lyftist upp í hærra veldi, þá einmitt á æfi þeirra, þegar eðlilegast er að slík ummyndan komi fram, þá einmitt, þegar hugr þeirra fer að stefna út í lífið, þá einmitt, þegar þau taka til að stara undrandi, milli vonar og ótta, út yfir fjöllin háu, hin andlegu fjöll, sem aðskilja œskustöðvarnar og heiminn fyrir utan.

Það verðr ummyndan á öllum unglingum á því skeiði æfinnar, bæði stúlkum og drengjum. Líkamslífið ummyndast um það leyti, og sálarlífið líka að stór-miklu leyti hjá öllum. Og sá ummyndunartími er mjög varhugaverðr. Þá einkum þarf úr guðlegri átt lífi œskumannsins að koma hjálp. Það er svo undr hætt við, að menn lendi í háska á þeim tímamótum. Lífsnauðsyn, að hin frelsandi blessan kristindómsins sé þá lögð yfir alla. Og það er nú einmitt það, sem kirkja vor vill gjöra með hinum hátíðlega helgisið — fermingunni.

,,Hann, sem langaði' í átján ár
upp yfir fjöllin háu,
en veit honum er sá vegr of hár,
verðr minni hvert líðanda' ár.''

Það vill svo til, að hér eru nefnd átján ár, — jafn-langr tími þeim, er Jesús beið á œskustöðvum sínum í Nazaret, hinum afskekkta stað uppi í Galíleu-fjöllum, eftir atburðinn, sem kom fyrir á Jerúsalemsför hans tólf ára að aldri, þangað til

hann fyrir fullt og allt lagði á stað út í heiminn til að fullnœgja hinni guðlegu lífsköllun sinni. Hví beið hann svo lengi? Hvað er hann að gjöra öll hin eftirfarandi átján ár? Hann er enn — alla þessa löngu tíð — að þroskast, og eitt stórvægilegt atriði í þeim þroska er í því fólgið, að hann er að læra æ betr og betr að auðmýkja sig, gjörast lítill, —,,verðr minni hvert líðanda ár.''—Hin guðlega hjálp, sem kirkja vor vill veita ungmennunum með fermingunni, er nú fremr öllu öðru í því fólgin að kenna þeim þessa himnesku íþrótt: að lítillækka sig, auðmýkja sig, verða minni og minni frammi fyrir drottni og í eigin augum með hverju líðanda ári úr því. Og sú hjálp, sé hún að eins þegin, er ómetanleg. Því einmitt á þessum tímamótum, þegar börnin eru að hætta að vera börn, er þeim svo undur hætt við að lenda út í allskonar stórmennsku-hugsanir, verða sérgóð og upp með sér, þykjast ekki þurfa að standa undir neinni annarlegri stjórn, vilja vera sínir eigin herrar, telja alla vegi sér fœra, og œða dansandi út í opinn dauðann.

Fermingin misheppnast svo hraparlega — finnst oss. Og sannarlega er það ekki tómt myrksýni. Sorglega margir unglingar, sem fermast láta, virðast ekki bera neitt úr býtum með fermingunni; reynast ekki fastari í söfnuði sínum og kirkju á eftir, heldr þvert á móti lausari. Og sum ungmenni virðast beinlínis hafa verið útskrifuð úr kristninni með fermingunni. Þá misheppnast fermingin í sannleika. Og þótt að nokkru leyti megi hugga sig við þá von, að sumir af þessu fráfallna fermda fólki átti sig síðar á æfinni og nái að nýju eignarhaldi á hjálpræði guðs í Jesú Kristi, þá má þó ekki einblína á það. Margir þeirra, er falla frá eftir ferminguna, hverfa ekki aftr í skaut kirkjunnar. Lang-flestir þeirra, er nú eru áhangendr vantrúarinnar hjá oss Íslendingum, voru eitt sinn fermdir. Og undantekningarlaust voru þeir allir fermdir, sem fyrst voru hér með í þeirri ömurlegu hreyfing. Það er talandi vottr þess, að fermingin misheppnist meir en lítið í kirkju vorri. Vel og vandlega ætti menn því að hugsa um það mál, til þess, ef það væri unnt, að finna orsakirnar til þessa sorglega óhapps og ráð til að bœta úr því hér eftir.

Menn gæti vel að því, sem stendr í hinni helgu sögu um Jesúm eftir atburðinn einstaklega á páskahátíðinni í Jerúsalem: „Síðan fór hann með þeim til Nazaret og var þeim hlýðinn. —— Og Jesús þroskaðist að vizku og aldri og náð hjá guði og mönnum." Þarna er sýnt, hvernig framganga hans og lífsstefna hafi verið eftir það. En líka óbeinlínis sýnt, hvernig afskifti þeirra Jósefs og Maríu af honum hafi verið eftir það. Hann var þeim hlýðinn eins og áðr, og þau önnuðust bæði líkamslíf hans og hið andlega líf hans eins og áðr. Þau önnuðust hann með sömu ástríku og trúuðu nákvæmninni eins og áðr. En það er það, sem sorglega margir foreldrar ekki hafa gjört við börnin sín eftir ferming þeirra. Væri þetta gjört, myndi tiltölulega mjög fáar fermingar hjá oss misheppnast í samanburði við það, sem verið hefir í liðinni líð.

Það er lang-mest komið undir foreldrum og öðrum nánum vandamönnum unglinganna, hvort vel eða illa fer fyrir þeim eftir ferminguna—í því, sem mest á ríðr, því, sem eitt er nauðsynlegt. Það er heilög skylda foreldra að styðja að því — ekki að eins með áminningum og ávítum, og ekki fyrst og fremst með því, heldr umfram allt með framkomu sinni í verkinu, með dœmi sínu, samfara stöðugum fyrirbœnum til guðs—, að ungmennin eftir hin miklu tímamót ummyndunarinnar á æfi þeirra varðveiti barnatrúna sína kristnu og styrkist í henni meir og meir. En auðvitað þarf þessi mest verði þáttr í barna-uppeldinu að byrja löngu löngu áðr, — byrja svo snemma, að segja megi með sönnu, að börnin drekki inn í sig kristindóminn með móðurmjólkinni.

Hafi allir þetta hugfast. Áræði enginn að vona, að fermingin heppnist hjá oss, ef hið trúarlega uppeldi barnanna er í algjöru ólagi. Slík von er syndsamleg ofdirfska.

Sú von aftr á móti um blessunarríka framtíð barnanna, sem byggð er á samskonar uppeldi þeim til handa og frelsaranum veittist í Nazaret, hún skal aldrei reynast tál.



## Biblíufrœðin nýja.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

---

II. INNBLÁSTRS-KENNINGIN.

(Framhald.)

Hvað á annars að gjöra við náðarmeðala-kenninguna, þegar búið er að hafna kenningunni um innblástr og óskeikulleik biblíunnar? Á þá að hætta að telja guðs orð (ásamt sakramentunum) náðarmeðal? Eða hvaða guðs orð er það þá, sem er náðarmeðal? Hver á að finna það í biblíunni og segja til um það?

Sé biblían full af villum og skeikul, þá hefir hver maðr leyfi til að trúa hverju sem hann vill um það, hvað guð hafi opinberað. Einn strikar þá út það, sem sérstaklega kemr í bága við hugboð hans; annar strikar út það, sem hann ekki vill trúa (því það er ýmislegt í guðs orði, sem syndugr maðr helzt ekki vill þurfa að trúa). En er ekki augsýnilegt, hvar þetta loks lendir? það lendir í tómu trúleysi. Ef ekki er vissa fyrir því, að guðs vilji sé lagðr fyrir mann áreiðanlega og villulaust (innblástrs-kenningin), þá þarf maðr fyrir engu að beygja sig. Skapi ekki náðarmeðalið trúarmeðvitundina, þá er hún til lítils nýt. En náðarmeðal getr naumast verið í sjálfu sér gallað og skemmt. þess vegna held eg því enn þá fram, að þessi kenning um skeikulleik guðs orðs og ófullkominn innblástr sé háskaleg fyrir trú manna, þegar farið er að safna ávöxtum hennar.

Séra Jón Helgason furðar stórlega á því, að eg neita öllum stigum í innblæstri ritningarinnar. Mig furðar aftr á móti á því, hversu hraparlega sá mikilsvirti guðfrœðingr hefir misskilið þetta atriði. Honum hefir sannarlega ekki verið ljóst, hvaða merking þeir leggja í þá hugsan, sem einmitt halda fram mismunandi stigum innblástrsins. Annars hefði hann ekki komið með þá röksemdaleiðslu, sem hann kemr með út af því atriði.

þegar menn gæta þess, hvað innblástrinn er, nefnil. það, að guð aðstoðaði höfundana svo, að þeir ekki sögðu skakkt frá, ekki fóru rangt með, þá skil eg ekki, hvernig um nokkur stig getr verið að rœða. Hér er að eins um „annaðhvort-ellegar" að rœða. Höfundarnir annaðhvort sögðu rétt frá, ellegar

ekki rétt frá, fóru annaðhvort rétt með eða ekki rétt með. — Tökum dœmi. Eg segi t. a. m.: ,,Kólúmbus fann Ameríku.'' Allir vita, að það er satt. Eg segi líka: ,,Íslendingadagr var haldinn í Winnipeg.'' það er sömuleiðis satt. Eg fer rétt með þetta hvorttveggja. þessar tvær frásögur mínar hafa það sameiginlegt, að eg segi rétt frá í báðum tilfellunum; á því er enginn munr, engin stigbreyting. Vitanlega er það nú miklu meiri viðburðr í mannkynssögunni, að Kólúmbus fann Ameríku, heldr en það, að Íslendingadagr var haldinn í Winnipeg; en það er hvorttveggja *jafn-satt.* þannig er auðvitað mikill munr á viðburðunum og lærdómunum, sem frá er skýrt í heilagri ritning. það veit hver heilvita maðr. En fyrir það getr verið jafn-satt og rétt sagt frá þeim öllum. Og að því leyti getr þá ritningin öll verið jafn-innblásin, því innblástrinn er einmitt fólginn í þeim hœfileika, sem guð gaf biblíuhöfundunum til að skýra rétt frá öllu, segja allt eins og var. Á þessu vona eg þó að hr. prestaskólakennarinn átti sig og sjái þá um leið, að stóru orðin, sem hann talar í þessu sambandi, hafa verið nokkuð fljóthugsuð.

Mér finnst ekki svo örðugt að trúa því, sem höfundar biblíunnar segja um sjálfa sig, að þeir hafi verið innblásnir, þá er þeir rituðu. Ekki heldr finnst mér ervitt að trúa því, að þeir *allir* hafi verið það og öll biblían sé það. En hitt er örðugt fyrir mannsandann, að gjöra sér grein fyrir því, *hvernig* guðs andi varð mannsandanum samverkandi í þessu verki. það er einn af leyndardómum kristindómsins, hvernig heilagr andi fer að starfa í sálu mannsins.

Gömlu 17. aldar guðfrœðingarnir kenndu, að innblástrinn hefði verið mönnunum algjörlega ósjálfráðr (mechanical). þeir álitu, að mennirnir, sem bœkr ritningarinnar sömdu, hafi algjörlega misst sjálfstœði sitt, meðan á því stóð, eiginlega hætt að vera menn, en orðið eins og dauðir hlutir, andlaus verkfœri, ekkert hugsað, ekki haft neinn vilja, verið rétt eins og lúðr, sem blásið er í, ekki meir riðnir við hugsanirnar heldr en penninn hjá þeim, sem skrifar; hugsanirnar hafi verið gefnar þeim um leið og þeir skrifuðu, og svo hafi þeir ritað í nokkurskonar leiðslu eins og andinn bauð þeim hvert

orð, hvern staf, hvern punkt. Í þessari kenning eldri guðfrœðinganna *gætti mannsins alls ekkert*, og að því leyti er hún mest frábrugðin því, hvernig menn nú hugsa sér innblástrinn.

Nú er víðast í lútersku kirkjunni kennt, að það sé síðr en svo, að höfundarnir hafi misst manneðli sitt, heldr haldi hver höfundr algjörlega persónulegum eiginleikum sínum og sérkennum; andi og hugsunarháttr hvers höfundar haldi sér. En svo er kennt, að guðs andi hafi svo leiðbeint anda mannanna, að þeir fóru ekki rangt með nokkurn hlut, heldr skýrðu rétt frá öllu, svo sannleikr guðs opinberana og saga þeirra varðveittist sönn og væri lögð fyrir komandi kynslóðir áreiðanleg og óyggjandi. Þessu trúum vér, en þetta skiljum vér ekki. Ekkert fremr getum vér skilið þetta sérstaka starf heilags anda, heldr en vér skiljum náðarverk hans yfirleitt, ekkert fremr en vér skiljum, hvernig heilagr andi fer að upplýsa sálir kristinna manna almennt. Ekki má samt blanda saman upplýsing og innblæstri. Það eru tvö sérstök kraftaverk.

Annars skal eg nú gefa tveimr öðrum mönnum orðið um þetta mál, mönnum, sem eg veit að allir, er til þekkja, bera hina mestu virðing fyrir, því það eru tveir einhverjir mestu guðfrœðingar kirkju vorrar í Vestrheimi. Það eru forstöðumenn tveggja helztu prestaskóla lútersku kirkjunnar hér í landi; og get eg til, að mörgum þyki fróðlegt að bera álit þeirra saman við skoðanir prestaskólakennarans í Reykjavík. Annar þessara manna er dr. *H. E. Jacobs*, forstöðumaðr prestaskólans í Philadelphia, en hinn er. dr. *R. F. Weidner*, forstöðumaðr prestaskólans í Chicago. Af því eg vissi, hve mikla virðing menn bera fyrir þessum mönnum, ritaði eg þeim bréf og bað þá í fám orðum að segja mér, hvað þeir kenni um innblástr heilagrar ritningar í skólum sínum.

Dr. Jacobs svarar þessu:

„Vér höldum fram því, sem Philippi kallar *verbo-dynamic* kenninguna, nefnil., að heilög ritning sé villulaus og óskeikul frásaga um opinberan gaðs, og sé það vegna guðlegs innblástrs, þ. e.: þeirra áhrifa heilags anda á höfundana, sem ekki að eins varðveitti þá frá öllum villum, heldr líka réð meðferð efnisins og þá um leið orðavalinu, án þess þó að raska

persónuleik höfundanna. Samsvarandi þessari kenning er kenningin um persónu Krists, þar sem manneðlið er ekki uppsvelgt né að engu gjört af guðdómseðlinu, heldr gagntekið af því. Takmörkun manneðlisins í Kristi samsvarar takmörkunum hinna innblásnu höfunda, en aftr á móti samsvarar vegsemd þessa eðlis hans yfirburðum ritningarinnar yfir allar aðrar bœkr. "—Hér má líka minna á það, sem dr. Jacobs segir í ritgjörð sinni í þessa árs *Lutheran Church Almanac*: ,,Heilög ritning inniheldr ekki að eins guðs orð, heldr *er* guðs *óskeikult* orð, eina mælisnúran á alla kennara og kenningar, og fyrir meðferðina á henni verðr hver maðr um síðir að standa reikningsskap."

Dr. Weidner ritar þetta:

,,Vér kennum fullkominn (plenary) innblástr biblíunnar og höldum þeirri kenning fram í skóla vorum. Vér trúum því og kennum það, að *öll* biblían sé guðs orð, að í hverjum parti biblíunnar sé óyggjandi sannleikr og guðlegt vald. Vér kennum, að alls ekkert sé í ritningunni, sem ekki er innblásið; að hinum helgu höfundum hafi verið svo leiðbeint af heilögum anda, að þeir hafi verið varðveittir frá öllum villum, bæði að því er snertir viðburði og kenningar." Um eðli innblástrsins segir dr. Weidner meðal annars: ,,Hinir eldri guðfrœðingar vorir héldu fram því, sem kallað hefir verið *mechanical* kenningin; vér aftr á móti höldum fram því, sem nefnt er *dynamic* kenning; og samkvæmt henni héldu höfundarnir öllum persónulegum eiginleikum sínum og náttúrlegu starfi anda síns. ——Biblían er sannarlega guðleg og sannarlega mannleg. Innblástrinn gjörði ekki að engu sjálfstœði mannsandans. Þrátt fyrir það, að biblían er mannaverk, er hún eigi að síðr guðleg; og þrátt fyrir það, að biblían er guðs verk, er hún eigi að síðr mannleg. Guðlegr kraftr og mannlegr kraftr mynda hér til samans guðmannlega bók. Hversu óskiljanleg sem þessi sameining hins guðlega og mannlega í ritningunni er, höfum vér þó eðli Krists til samanburðar. Kristr var sannr guð og sannr maðr. Svo er og biblían sannarlega guðleg og sannarlega mannleg. Kenningin um holdtekjuna og kenningin um innblástrinn eru hvor annarri til uppfyllingar. Hvorttveggja er yfirnáttúrlegt. Ef kenningin um holdtekj-

una er sönn, þá er kenningin um innblástrinn nauðsynleg, svo rétt sé sagt frá hinum sáluhjálplega sannleika. þessar tvær miklu kenningar verða aldrei aðskildar. Ef biblían er ekki innblásin, þá höfum vér enga vissu fyrir því, að oss sé rétt sagt frá holdtekjunni og endrlausninni."

Eg gæti komið hér með vitnisburð óteljandi hinna mestu og lærðustu manna kirkjunnar til staðfestingar kenningunni um fullkominn innblástr biblíunnar. Á borðinu hjá mér liggr t. d. bók, sem heitir *The Inerrant Bible* (Hin óskeikula biblía), og er þar safnað saman orðum fjölda margra aðalleiðtoga kirkjunnar, er allir hafa það fyrir satt, að *öll* biblían sé innblásin og óskeikul. Meðal þeirra eru prófessorarnir Hodge, Green, Patton, Smith og Shedd hér í landi ; dr. Carson í Írlandi, Robertt Haldane í Skotlandi, Ryle biskup í Englandi, Rohnart í þýzkalandi, hinn mikli biblíufrœðingr Tregelles, og ótal fleiri. — En, ef til vill, ætti nú þessir menn „helzt aldrei að taka sér bók í hönd."

Að endingu skal eg minna á, hverju vér allir játum, sem stöndum í „Hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vestrheimi", samkvæmt 3. grein grundvallarlaganna :

„Kirkjufélagið trúir því, að heilög ritning, það er : hinar kanonisku bœkr gamla og nýja testamentisins, *sé* guðs opinberaða orð, og hin *eina sanna og áreiðanlega regla* fyrir trú manna, kenning og lífi."

Meðan skoðan mín á ritningunni er samhljóða trúarjátning kirkju minnar og grundvallarlögum kirkjufélags míns, og meðan henni er haldið fram af þeim guðfrœðingum, sem eg lang-mest virði, tel eg það engan „ábyrgðarhluta" fyrir mig að framfylgja henni. Hitt myndi eg skoða stóran ábyrgðarhluta fyrir guði, að kasta svo og svo miklu af heilagri ritning útbyrðis. það held eg sé mikill ábyrgðarhluti fyrir „kristinn (prestaskóla-)kennara og prest".

## Dalarósir.

Í skáldsögu þeirri, er nefnist *The Sky Pilot* eftir Ralph Connor (þ. e. : Daniel Gordon, presbyteríanskan prest, skozkan að uppruna, hér í Winnipeg), er lýst mannlífinu og náttúrunni vestr í Alberta, hérna megin við Klettafjöll. Bókin sýnir, hvernig kristindóminum er rudd braut inn í það mannfélag, og er prýðilega rituð. þar segir meðal annars frá ungri stúlku, sem út af nýáföllnum sárum og óviðeiganlegum mótlætiskrossi hneykslaðist á guði og var á leiðinni með að hata

hann. En boðberi fagnaðarerindisins um Jesúm Krist segir henni dœmisögu eina, sem kom henni til að átta sig á leyndarmáli sársaukans í mannlegu lífi og kristindómsins. Þess skal getið, að rétt hjá kofanum, þar sem stúlkan átti heima, var „preríu“-dalr einn með ákaflega auðugu jurtalífi og skínandi náttúrufegrð, og þar var hennar paradís. En dœmisagan hljóðar svo :

Upphaflega voru engin daladrög, lœkjargil eða gjár til,— ekkert nema takmarkalaus, rennslétt grund—prerían. Einn dag gekk herra preríunnar út þangað, á sléttuna, þar sem að eins óx gras, og spurði preríuna : „Hvar eru blómin þín?“ Prerían svaraði : „Eg á ekkert blómstrfrœ.“ Þá talaði hann til fuglanna, og þeir flugu burt með allskonar blómstrfrœ og stráðu því út hvervetna. Og innan skamms tóku blómin að spretta fram : crocus, rósir, vísundajurtir, gulir krákufœtr, sólarblóm, rauðar liljur—allt sumarið út. Herrann kom og var ánœgðr. En þó saknaði hann þeirra blóma, sem honum þótti allra vænzt um. Og hann sagði við preríuna : „Hvar eru blóm þau, er clematis og columbinus nefnast, fjólurnar inndælu og anemonurnar, burknarnir og blómrunnarnir?“ Og hann talaði aftr til fuglanna, og þeir fóru á stað með frœ þessara blóma og stráðu því alls staðar út. Samt fann herrann ekki blóm þau, sem honum þótti vænzt um, þegar hann kom enn. „Hvar eru þau, blómin mín inndælustu?“ spurði hann. En prerían svaraði döpr : „Ó, herra! Eg get ekki haldið þeim blómum hjá mér, því að vindarnir næða kuldalega og sólin kemr hart við brjóst mitt, svo blómin visna og fljúga burt.“ Þá talaði herrann til eldingarinnar, og með einu snörpu slagi klauf hún preríuna allt í hjartastað. Og prerían nötraði og skalf af angist ; og lengi mátti heyra sárt kvein, er lagði út frá hinu svarta, tindótta holundarsári hennar. En svo kom dálítill lœkr, sem varð að á — Álftá—, streymandi með vatn gegn um gilið, og með því vatni stór-mikið af svartri gróðrarmold úr árbökkunum. Og enn að nýju komu fuglarnir með frœ og stráðu því um allt gilið. Tíminn leið. Og smásaman huldust hinir ósléttu klettar mjúkum mosa og villivínviðar-tágum; og hver gilkrókr varð alsettr blómjurtunum fögru clematis og columbinus; og álmtrén lyftu hinum stórvöxnu toppum sínum hátt upp í sólarljósið; og hið neðra við fœtr þeirra stóðu sedrustrén og balsamtrén í þéttum þyrpingum; og allsstaðar spratt fjólan og anemonan og meyjarhárið og blómstraði; —þangað til meistarinn gat haft gilið fyrir helgireit til þess að njóta hvíldar, friðar og fagnaðar.

Hún þagði stundarkorn—stúlkan litla raunamœdda—eftir að saga þessi var á enda. En tók svo til máls og sagði: ,,Já, eg veit það;— blómin í gilinu eru bezt allra, lang-bezt.—En hvað merkir dœmisagan?“—Hún fékk þetta svar, sem henni var lesið upp úr nýja testamentinu (Gal. 5, 22): ,,‘Ávextir andans—blóm andans—eru kærleiki, gleði, friðr, langlundargeð, góðlyndi, góðvild, trú, hógværð, bindindi.’ Og sum af þessum blómum vaxa hvergi nema í dalnum.“—,,Hver eru þau blóm, sem að eins vaxa þar?“—,,Góðlyndi, hógværð, bindindi (með öðrum orðum: það, að hafa stjórn á sjálfum sér).“—,,Í dalnum mínum eru að eins klettar og klungr“—sagði stúlkan raunamœdd og með skjálfandi rödd.—,,Á sínum tímum verðr þar blómum þakið, mín góða!“—var svarið. ,,Og hann—drottinn — mun finna þau, og líka við munum fá að sjá þau.“

* * *

Kristnir menn! þér skiljið allir þetta líkingarmál og samtalið út af því, er þér hugsið um píslarskelfingar þær, er frelsarinn varð að ganga í gegn um áðr en hann væri upp hafinn til dýrðar sinnar, — og það, að þegar drottinn sendir yðr raunir, sárar, þungar, frá sjónarmiði náttúrlegra tilfinninga yðar með öllu óbærilegar, þá er það að tilætlan hans til þess, að á yðr fái rætzt þessi orð í einum fögrum jólasálmi vorum :

,,rósir í dölunum spretta.“

---

Séra Friðrik J. Bergmann fór í vetr í vikunni milli jòla og nýárs austr til Battle Creek í Michigan-ríki, eins og áðr hefir verið um getið í ,,Sam.“, og dvaldi þar á Phelp's Sanatorium sér til heilsubòtar þangað til í miðjum Febrúar. Eftir það ferðaðist hann til Philadelphia, New York, Washington og Chicago. Var hann hér um bil einn mánuð í því ferðalagi. Kom heim til sín að Garðar 16. Marz. Í vikunni eftir páska brá hann sér snöggvast hingað norðr til Winnipeg og var hér með skólanefndarmönnum íslenzka kirkjufélagsins á fundi, er þeir höfðu með sér 10. og 11. þessa mánaðar Heilsubótar-tilraunin virðist blessunarlega hafa heppnazt, og er drottni þar fyrir mikið að þakka. Útlit hans ber þess þò enn ljós merki, hve nærri honum hefir sjúkdómrinn gengið. Hann þjònar nú prestakalli sínu eins og áðr. Vonanda og óskanda, að kraftar hans styrkist enn meir smásaman.

---

,EIMREIÐIN“, eitt fjölbreyttasta og skemmtilegasta tímaritið á íslenzku. Ritgjörðir, myndir, sögur, kvæði. Verð 40 cts. hvert hefti. Fæst hjá H. S. Bardal, J. S. Bergmann o. fl.

,,ÍSAFOLD“, lang-mesta blaðið á Íslandi, kemr út tvisvar í viku allt árið; kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 557 Elgin Ave., Winnipeg, er útsölumaðr

,,VERÐI LJÓS!“— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar og Haralds Níelssonar í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardal í Winnipeg og kostar 60 cts.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.